# ALDASKRÁ

samin

af

Jóni presti Ýngvaldssyni.

# ALDASKRÁ

samin

af

**Jóni presti Ýngvaldssyni.**



AKUREYRI.

Prentuð í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins, af H. Helgasyni.

1856.

Sitthvað sannað', eitt og annað, „Aldaskrá:“
ritið heita mitt svo má;
mætir landar, hyggið á!

Ark ef fyrsta' og annað lystir yður að sjá,
og ferskillíng hvort fyrir að tjá,
fleiri kunnið líta þá.

Innfestíng þó ofur rínga andvirðið
enn tvískillíng aukið við;
af því vínir berið þið!

Eins þarft kaup, það eg verð raupa, aldadrótt!
og brenns-víns lök mörk belgd of óðt,
er bruggar mörgum heilasótt.

Menn að fræða meir enn græða mèr er annt
þess ef nokkrum væri vant,
vitið mitt þó reynist grannt.

Sá, er getur 7 eða betur selt mín kver,
áttunda hvert eigni sèr,
andvirði nær skilast mèr.

En boðsbrèfi í mitt stefað enn má biða
rit, unz stundir lengri líða,
og land um þessar bögur skríða.

Betur kann opt eins enn annars auga sjá,
þó ver lærður sýnist sá,
svo hèr líka verða má.

Lesari blíður! láttu tíð ei leiðast þèr,
þó lángt finnizt mas úr mèr;
meir hygg til, hvers ætlað er:
Að rètt þekkir, ei svo blekkist, er til ber,
rètt hvort eða rángt kènnt er
ritum í, sem bjóðast þèr.
Í formála, er hèr málast ætti, stað,
þiggið þetta bögublað,
og betra veg á virðið það!
Mjór hvort þetta mikils vísir megi reynast,
eða fyrst og einnig seinast,
eptir fer, hve ferð því beinast.
Lifið sælir lífs í friðar ljúfu skini!
Óskast þess af yðar vini,
Ýngvalds- Jóni presti -syni.

---

Í 7. ári Þjóðólfs, bls. 27. og 28., getur S. T. herra lögfræðíngur J. Guðmundsson reikníngskvers sèra S. B. Sivertsens, og ber því allvel söguna, þó flestum þyki honum fulltamt að finna, hvað feitt sè á stykki, og stundum að lúta að litlu, og miðlúngi sönnu eða rèttu, í þessu máli; því er það undarlegt, að hann ekki hefir þar sèð eða fundið þessa hèr fylgjandi ágalla eða vansmíði:

1., Uppá hvert 1 ríkisort heilt brestur $\frac{1}{5}$ sk., sem samanlagðir á 5 ríkisortum gera 2 heila skillínga, sem þau þessvegna brestur á, til að gilda fulla 2 rd. r. m., sem vera bar; en í reikníngslist sjálfs lögfræðíngsins, á 72. bls., lætur hann 1 ríkisort gilda $38\frac{2}{5}$ sk., sem ei er heldur fullrètt.

2., Á hvern gamlan áttskillíng brestur $\frac{1}{5}$ sk., sem gerir á 15 áttskillíngum (er eiga að samgilda 12 fornum tískillíngum eða 2 rd. r. m.) fulla 12 skillínga; og má finna minna grand í mat sínum enn þetta, þar sem sumstaðar er svo smásmuglega reiknað, að fáeinir $\frac{1}{1000}$ partar úr einskillíng eru taldir,

3., „Frivilligt Offer til Fædrenelandet“ er hvergi nefnt á nafn, hvers þó eigi virðist vanþörf að geta í tilliti gildis þess; því um einkis innanríkispeníngs gildi veit eg slíkan vafa og villu viðgángast, sem um þenna; því alþýðu ætlan er, að hann gildi frá 24. til 32. skillínga, og byggir hún þetta, að vonum, á stærð hans; en torveldt er að telja mönnum trú um, að peníngur þessi gildi ei nema 16 sk. r. m., er þó mun nær sanni enn hitt. En þó ei sè allmikið, er þó talsverðt til af þessum peníngi, og miklu optar ber hann fyrir hèr í landi, enn „Hamborgar - banco - markið,“ er herra J. Guðmundsson vandar um að vanti.

4., Á 17. bls. 17. l. er prentað „Justus index,“ er á að vera „Justus judex,“ það er: rèttvís dómari; en „index“ er = tilvísari, tilsagnari, vegleiðari, vísifíngur. (Öll þessi 4 hèr töldu vansmíði, eða vangerfi, finnast líka í litla kverinu um sama efni, er út kom 1850, og munu þau ritsmiðunum, en ei prenturunum, að kènna). Á 17. bls. hefði líka verið betur gert, að tilgreina ártal og konúngsnafn á krónum þeim, er gilda: 1 rd. 4 sk., 1 rd. $12\frac{4}{5}$ sk. og 1 rd. 16 sk., svo eigendur þess-

ara penínga hefðu orðið nokkru nær um verðgildi þeirra. Um allt hèr talið fannst mèr nær og þarfara, að kènna mönnum rèttan sann, enn að telja og tína: Tertiur, Qvarta, Qvinta og Sexta úr gráðum á 41. bls., er færstir, allra sízt múgamenn, geta nè þurfa að gera sèr neina hugmynd um; en nokkru nær og nytsamlegra mátti virðast, að kènna þeim sann um, hve margir landmáls-faðmar liggi í svo nefndri landmáls-mínútu og secundu; en lengra eða dýpra virðist varla þörf að leiða almúga inn í þessa mælíngameistara völundarhús himins og hauðurs.

5., Á 42. bls. 9. l. að ofan kallast teníngsfaðmur (ɔ: Kúbíkfaðmur) það, sem reyndar er ei nema tígulfaðmur (ɔ: ferraðar-ferkants- eða ferhyrníngsfaðmur); því teníngs- eða kúbbs-faðmur (kúbbur eða kubbur hygg eg dregið af cubus) er þrisvar 9 eða 27 teníngs-álnir að líkams rúmsmáli.

6., Á 18. bls. er 1 hundr. sagt vera 24 fjórðúngar, er eg ei heldur skil, hve rètt má vera; því annaðhvort er 1 hundr. á landsvísu 12 fjórðúngar af ullu, tólg og smjöri, eða 48 fiskafjórðúngar að landsvísu, — og þannig finnst enn árlega talið í verðlagsskránum; því þó í fornöld, áður enn lögbók Magnúsar konúngs kom út, væru lagðar 3 vættir af gamalla sauða ullu í 1 hundr., sem sjá má í Kaupabálki og enum fornu Búalögum, þá nær það hvergi nokkru lagi nú á öld.

7., Herra lögvitríngnum verður ekki að vegi, að laga þá slæmu prentvillu á 80. bls. 5. l. að neðan: „er deilt í annan miðlið;“ ei heldur hitt á 18. bls.,

er hann kveður rángt, þar sem stendur: „1 fjórðúngur á landsvísu er 5 fiskar;“ þessu var þó lafhægt í lið að kippa, því hèr þurfti ekkèrt, nema setja: „fiska“ annaðhvort undan, eða eptir „fjórðúngur,“ t. a. m.: 1 fiskafjórðúngur o. s. frv. Alla þessa bresti meina eg heldur misritanir enn misprentanir. Mèr er enn spurn: Er það rètt, er stendur í Reikníngslist lögfræðíngsins í 75. bls. S. l.: „1 vætt fiska, eður 8 fjórðúngar, eður 80 fiskar?“ Mundi hèr ei eins vel fara, að setja 40 fyrir 80? Í staðinn fyrir 8 efstu línur á 19. bls., hverra innihald flestum er alkunnugt, mundi verið hafa fróðlegra, að rithöfundurinn, með öðrum 8 línum, gefið hefði sannskíra skýrslu um, hvað forðum gildti: 1 mörk silfurs, 1 mörk lögaura, — vöru- eða verðaura; eða: 1 mörk vegin og 1 mörk talin, sem svo þrásinnis finnst í fornsögum og lögum vorum; eða, hvað gildi 1 hundr. silfurs, 1 eyrir, 1 ortug og 1 alin silfurs. — Á 40. bls. var líka fróðlegra að gefa greinilega og sanna ávísun og skírslu um þær tvennslags álnir, er allt frá lands vors byggíngu, og allt fram um 1776, gengu að eins á landi hèr, í allri innlendri og útlendri kaupverzlun; því eptir árið 1776 var sú in danska Sælands-alin fyrst lögboðin hèr; og gekk þó enn lengi þar eptir og víða, allt fram um aldamót, sú in gamla þýzka Hamborgar-alin, er almennt nefnist íslenzk alin, af því hún gekk og gildti hèr eingöngu í allr inn- og útlendri verzlun til 1776, en í innbyrðis

viðskiptum innlendra allt fram um 1800, og mun hún enn trauðla að öllu úr gildi gengin, og að vísu finnast enn allvíða íslenzkir kvarðar, sem báðar þessar álnir eru jafnt á markaðar. Þá er enn eptir, til fróðleiks mönnum, að minnast á ena norrænu - eða forn - íslenzku alin, er forðum var merkt á steinkirkjuvegg á Þíngvöllum, að því, er segir í Grágás (kaupab. 82.) og sem gekk hèr milli lands og laga, og gildti í allri inn- og út-lendri kaupverzlun frá bygging lanzins, unz Þýzkir, ɔ: Hamborgarar, tóku að reka hèr kaupskap á 15. og 16. öld. En af skíríngargrein nezt á 78. síðu í Reikníngslist lögfræðíngs J. Guðmundssonar er auðsjeð, að hann hefir engi skil nè skyn vit að um þessa forn-íslenzku alin, hver þó alstaðar meinast, hvar helzt sem alin nefnist í fornum söggum eða lögum, t. a. m. í Grágás, Hákonarbók eða Járnsíðu og í lögbók Magnúsar konúngs lagabætis, er almennt nefnist Jónsbók. Fyrr tèð skíríngargrein er orðrètt svo hljóðandi: „Merk: Þær útlistanir, sem hèr eru auðkènndar með **„St“** eru teknar úr reikníngslist stiptamtmanns sál. Ólafs Stephánssonar; bls. 66, um mæliskapt, segir þar: „er 6 álnir, eður vorar 7 álnir;“ eg skil það svo: — 6 álnir danskar eða 7 íslenzkar; en kemur þó ekki vel heim, þar 6 álnir danskar eru 144 þumlúngar, eru 7 álnir íslenzkar $152\frac{8}{11}$ þuml. — en mèr er óljóst hvort rèttara er.“ „Hèr hefir nú lögvitríngnum Eyúlfi yfirsèzt“ (kvað Þórhalli Ásgrímssyni forðum, —

sjá Njálu); en eg vil segja: hèr hefir lögfræðíngur herra J. Guðmundsson hraparlega miskilið stiptamtmann Ólaf Stephánsson; því fyrir: „6 álnir“ meinar hann, ekki 6 danskar álnir, heldur 6 seinni alda íslenzkar álnir, ɔ: Hamborgarálnir; en fyrir „6 vorar] álnir“ meinar hann ekki 6 Hamborgar = svo nefndar íslenzkar álnir seinni alda; heldur: 6 fyrr taldar forn-íslenzkar álnir. En lögfræðíngur herra J. Guðmundsson, er ekki virðist vitað hafa um þessa frumalin vorra landa, tekur fyrri 6 álnirnar fyrir nú gildandi danskar, en 7 álnirnar fyrir Hamborgar — eða seinni tíða svo nefndar íslenzkar — álnir, hvað þumlúngatal hans ljósast vottar, en hefir ekki vitað eða athugað: að þegar amtmaður, síðar stiptamtmaður, Ól. Stephánsson samdi Reiknfngslist sína, þá var dönsk alin enn nú ekki innleidd eða lögmæt orðin í landi voru; því þetta skèði ei fyr enn eptir 1776, og þó ekki fyr enn löngu síðar í innbyrðis viðskiptum meðal innlendra. En nú er spurn, sem öllu hægra er upp að bera, enn rètt úr að leysa (þó þetta sè allt þarflegt að vita, til að ná rèttum skilníngi laganna, þar sem um alin ræðir): hvílík, eða hve löng, var þá sú in áminnsta forna íslenzka alin, sem allstaðar, í fornum sögum og lögum, er til meint, þó færstir nú á öld virðist vita, að sú hafi nokkur til verið, því síður, að frekari skil eða grein fái gjört fyrir henni? Og svar mitt hèr uppá verður svolátandi: þessi norræna eður forn-íslenzka al-

in var þeim mun styttri að máli, enn hin seinni alda svo nefnda íslenzka — en rèttara sagt þýzka — alin (er hèr gekk staflaust á seinni öldum), að 7 hinar fyrri voru jafnlángar sem 6 þessar; því af enum fyrri gengu $3\frac{1}{2}$ alin, en af enum síðari beint 3 álnir í málfaðm, eða málhæð meðalmanns, sem ljóst sèst af Landsleigubálks 31. kapít. En innbyrðis jafnaðarmunur þessara þrennslags álna (ɔ: elztu, seinni og seinustu alda álnar) var á þessa lund: að dönsk alin gerir 24 þuml., Hamborgar-alin (ɔ: íslenzka miðalda-alinin) $21\frac{9}{11}$ þuml., en hin elzta $18\frac{5}{7}$ þuml., og stenzt það rètt á endum, að þessu lagi: að 6 Hamborgar- og 7 forníslenzkar-álnir verða nærfeldt jafnlángar að þumlúngatali, svo að eins munar $\frac{1}{11}$ úr þumlúngi, sem 6 Hamborgar-álnir eru styttri enn 7 hinar forníslenzku. Hèr af birtist það, meðal annars, að þær 12 álnir, sem sagt er að Skarphèðinn hlypi yfir Markarfljót, meðal höfuð-ísa (ɔ: milli skara), hafa verið rúmar 9 álnir, eða mest — hafi það verið þá vel mældar 12 álnir — $9\frac{1}{3}$ áln. að dönsku máli. Án þess að vita rètt skil og grein á þessu forna álna-máli, fá menn aldrei rètt skilið neitt það, sem greint er um alin í lögbókum vorum, t. a. m.; Landsleigub. 7. kap. og Rekab. 2. kap. um: „álnarkèfli,“ og Landsleigub. 31., þar sem segir svo: „þeim manni, sem er hálfrar fjórðu álnar hár“ — ɔ: 3 álnir íslenzkar að Hamborgarmáli; og L. l. b. 32.: „hlið er þar til er $3\frac{1}{2}$ álnar breiðt, ɔ: málfaðmur á breidd,“ og L. .l b.

34.: „þjóðgata skal vera 5 álna breið,“ og Kaupab. 5.: „Nú er lögeyrir 6 álnir vaðmáls, nýtt og ónotið.“ — það má og ætla, að ef fyrir alin þar ætti að skiljast: þýzk eða dönsk alin, þá mundi alltorgæft að fá þorsk svo stóran, að hann væri 1 slík alin í öxarþærur (ɔ: yfir hnakka, á þunnhyldis-nef, er hafast skyldi til að miða og marka við fiskhelgina); eða hversu mætti það þá hafa stað: að meðalkýr á vöxt sè stika, eða 2 slíkar álnir að hæð, af klaufarhæl á herðakamb, eða nær 44 þumlúngar; því sú kýr mun enn heita mega meðalkýr á vöxt, sem stika (ɔ: 2 forn-íslenzkar álnir, eða 37½ þumlúngur) er á hæð.

Af því eg sá, að herra lögvitríngur J. Guðmundsson hafði farið villur vegar í álnamáls útþýðíngunni í tèðum stað í Reikníngslist sinni, fèkk eg ei bundist að gera hèr þessa skírslu um álnir vorar, fornar og nýar; og vona eg til, að alþýðu hafi þetta ekki illa komið, eða óþarft verið; því þareð hinn lærði lögfræðíngur vissi ei betri eða rèttari grein á slíku, þá er engi von, að alþýðu mundi þarum betur farast, og mun þó í þessu, sem flestöllu öðru, betra að vita rètt enn hyggja rángt; því, þegar sjálfur lögfræðíngurinn og aðalleiðtogi og fræðari fólksins, er villtur og leiðir í villu — sem blindur blindra leiðtogi — þá er ei von á verra!

---

Sá, er skráðar samdi umvandanir,
alkènnt dylja ei nafn kann:
Ýngvaldsson Jón heitir hann.

Húsavíkur hann er talinn prestur;
bersögull og orðskrár er,
eigi vel því kèmur sèr.

Hót mun sá ei heldur á það telja,
sams þó njóti öðrum af,
undir fót sem þeim hann gaf.

Opt hið sanna af því kann að græða:
að hver senni annan við,
ei þó grenni bræðra frið.

---

Nú mun góðum mönnum, sem lèð hafa um hríð tönn og túngu, augu og eyru, til að lesa, tala og heyra þessa umvöndunar kènníngu, þykja þegar nóg, ef ekki of nóg, komið í bráð af slíkri — að sumum kann að virðast hæsíngsligri, magurri, þurri og þefdaufri, og gott ef ekki þef-illri andarfæðu — og því orðið mál að væta, eða bœta, sèr í munni með einhverri mýkri, aðgengilegri og óþurrari andargetu. En svo lengi að eg ekki reyni eður rek mig á annað verra, vænti eg svo góðs til allra heiðraðra lesenda og rèttvísra ritdómenda minna, að ei virði verr enn meintar eru hèr framanskráðar umvandandi aðfinníngar; og hugleiði og láti sèr að kènníngu verða, að ef aldrei heyrðust nè sæust neinar aðfinnzlur, þá mundu seint veitast umbætur

eða leiðrèttíngar hins eða annars, er þó ekki væri upp úr þeim vaxið; og að, ef alþýða ætti greindar - reyndar - og prófunar - laust að meta allt, sem dropið hefir, eða drjúpa kann, úr lærðra penna, á pappírinn, svo heilagt og háleitt sem frá himnum komið væri, eða gengið út af Guðs sjálfs munni, þá færi ei of allt sem skyldi. Því verkin sýna merkin: að ei fara alltíð fjarri sanni stökur þessar, er segja svo:

Líka villast lærðir menn, já, lærðir bezt;
öllum getur yfirsjezt,
algjört mannsverk færst því tjezt.
Betur kunna augu eins enn annars sjá,
miður lærður sè þó sá;
svo hèr líka verða má.

En þó sá — hvort heldur eg eða annar — er lýsa eða birta vill villu lærðra manna fyri alþýðu og kènna betri sann, kunni að verða mörgum — en ekki hverjum — manni hvymleiður; þá tjóar ekki í það, eða við því, að sjá; og þó maður fyri slíkt mæta kunni misrèttum dómum eða verða misjafnt þokkaður, þá má skrum-og skaup-laust þar um segja, að eigi sè leiðum að líkjast; heldur þeim eina, er maður ekki ætti að láta sèr í augum vaxa, eða neina lægíngu þykja, að líkjast og breyta eptir. — Í tilliti tèðra umvandana, og hins eða hinna, er þar með kynni að þykja sèr ofnærri gengið, eða höggvið, leyfi eg mèr því að vísa til þessara orða: „hafi eg illa talað, þá sanna, að það sè órètt,“ o. s. frv. — En í annan stað má þess geta: að um

lángar liðnar aldir hefir það verið eitt ekki ið minnsta upplýsíngar - framfarameðal hinna lærðu norðurheims þjóða, að hver ritaði umvandanir og aðfinnzlur við annars verk, og þykir slíkt vera in bezta hvöt og bendíng til þess, að hver rithöfundur (sem æ á þessa von), stundi því fremur að vanda sem bezt ritgjörðir sínar; og jafnframt til hinns, er að finnur, að hann vandi sem bezt umvöndunina, „svo ei kènni hann öðrum," en verði sjálfur rækur; enda bera ný Fèlagsrit og Fjölnar, að eg ei nefni Þjóðólf, allvíða þess óræk merki, að vorir lærðu landar nú á öld hafa ei viljað verða nè vorðið eptirbátar annara í þessu; en hvort þeir hafi ætíð kunnað sèr rètt hóf og aldrei stígið feti framar enn þurfti eða skyldi (t. d.: guðfræðíngurinn, er reif og tætti í sundur og gerði náliga að guðlasti Fösturæður sèra Ólafs Indriðasonar, er byskup vor sál. lèt sèra llvel líka), er eptir að vita og sanna; því ofmikið má að öllu gera, og hóf er bezt að hafa' á öllu' og máta; en hvort eg hafi ratað nokkuð nærri því, verð eg að eiga undir dómi minna hyggnari lesenda. En með slíkum rita-aðfinnzlum hefir þó opt mörg fólgin fræði skírst og leizt í ljós, sem ið forna sannmæli kènnir: að margs verða hjónin vís ef hjúin senna. En í því eg nefni þessi nöfn: hjón og hjú, verð eg um leið að geta þess, að síðan um 14. öld, hafa þaug haft algert hausavíxl (?) eða hamaskipti á merkíngu sinni; því fram á tèða öld vóru hjú sama, sem Egta-hjón, og af því loðir enn við í voru máli að kalla hjónabandið hjúskap en

aptur á mót hètu vinnuhjúin þá hjón, og eru þar uppá ótal dæmi í fornsögum vorum, sem mèr öllu er ljúfara og tamara á að minnast og nokkuð um að ræða, „því þetta er mèr þrælsverkið skapfeldast: at glíma„ kvað Hrafn Guðrúnarson, góður drengur og landi vor, (les Fornm. S. 6. B. 48.kap.), heldur enn að vinna það óþakksama verk, að finna að ritum lærðra manna; þó eg fái slíks opt trauðt bundist, þegar eg þykist berliga sjá, að þeir kènni og selji alþýðu villu fyri sannindi, og láti kaupa hana af sèr dýru verði. Þó ei sè til að ætla, að þeir láti sèr þessi sannindi að kènníngu verða: að sá sè vinur, er til vamms segir.

Eptir þá að hafa svona lengi lúið yður, lesarar góðir! á að hafa þetta þurra og magra andafóður í munnum, eða túngu og tanna milli, vildi eg feginn fá boðið yður, og boðið nokkurn þann rètt, er yður kynni betur að falla; en hve þetta heppnast, er nú eptir að vita, þar fáir kunna ókènndum mat að kjósa, enda er svo margt selt og keypt, að sitt lízt hverjum; og verð eg þó að hætta á að bera og bjóða yður eitthvað af veraldlegri fræði, er mjer sjálfum gætist ei illa að, og væri það þá ekki sízt eitthvað, er snertir vors móðurlands, ɔ: Íslands sönnu sagna- eða túngu-fræði, og vænti eg svo góðs til yðar, góðir Samlandar! að yður ei velgi við slíkri andarfæðu, ef ei væri allt of hroðaliga framborin.

Því: „Mál fornt og Saga móðurlands,

maður hver hygginn stunda ætti,
að af vangeymd og órækt hanns,
afmán, skèmmd eða tjóni' ei sætti."

því: „Túngan, frægra afa er
einka minnjahnoss, er hèr,
enn litt spillta egum vèr;
iðka og rækja vel því ber."
Í víðum heim því öllum er,
engi þjóð, sem jafnt og vèr
hèr af fái hrósað sèr;
happ ef þetta illa' ei fer.
Túngan sameign alz vor er
Íslendínga, skyldi hver
um vel hyrða eins og ber,
að ei henni spilli fyrir sèr.

En af því þessi vor forna túngufræði ekki er þó svo alþýðleg andargeta nè frambæriligur almannarèttur, mun eg hèr ei meira að sinni um hana ræða; en víkja heldur til sögu vors móðurlanz; því þetta kinland vort hefir æ verið, síðan landið bygðist, ið frægasta sagnasæti og rètt nefnt aðalból Saga eða Sögudýsarinnar; því óhætt mundi að fullyrða, að ekki (ɔ: ekkèrt) jafn fámennt land í víðri veröld verið hafi, eða sè, jafn auðugt sem það að hverskins sagnafræði og fjöld, bæði sakir þess, að í engu svo mannfáu landi hafa, á jafnskömmum tíma, til borið svo mörg og markverð sagnaefni, og hvergi heldur á 11., 12. og 13. öldum uppi verið jafn fróðir og merkilegir sagnameistarar, lögvitríngar og þjóðspekíngar sem hèr á

landi, eða jafn ágætir afreksmenn, og dugandi drengir, sem þeir, er hinir sömdu sögurnar af, einkum á 2. og 3. öld eptir byggíngu lanzins, og eru þessar merkilegu sögur, sögukapparnir (ɔ: sem sögurnar eru af) og sögusmiðirnir, í alræmi og náliga þjóðkunnir um mestan hluta Norðurálfunnar. Þessa fornu frægð landa vorra hafa ýms góð skáld nú á öld reift og leyft í kvæðum nokkrum, er lesa má í nýum Fèlagsritum og Fjölni; þó engi slík fái að innihalds-fróðleik og efnisgnótt komizt til jafns við ið ágæta 1. kvæði: „Ísland kallað,“ í Eggerts ágætu Kvæðabók. En auk allra hinna er enn eitt kvæði um sama efni orkt af Jakob Jónssyni bónda, er fyri 18. aldar lok bjó lengi á Ísólfsstöðum á Tjörnnesi, kveðið undir fáheyrðum lángloku-hætti; og þar eg veit að þetta kvæði, sem kallast má allvel orkt, aldrei er fyr prentað, og muni fáum kunnugt, heldur enn Gunnars kvæðið frá Hlíðarenda, sem líka er með nú á öld fátíðum bragarhætti, vil eg nú, eptir fyrtalið og tögglað þuræti, bjóða að væta og bæta góðum lesendum í munni með báðum þessum á mína trú fátíðu kvæðum; og þeim er ei drepa hendi við þessu boði, vildi eg síðar bjóða nokkuð fleira þessu líkt, t. d.: sannar og minniligar smásögur, um manndygð og drengskap ýmsra frægra fornmanna á landi hèr eða í Norvegi.

---

# Gunnars-kvæði,

er víkur á æfiágrip **Gunnars á Hlíðarenda**, kveðið af sèra **Gunnari Pálssyni**, presti í **Hjarðarholti** og prófasti í **Dölum** frá 1753 til 1791.

---

Viðlagsstef kvæðisins hljóðar þannig:

„Fögur er nú Fljótshlíð,
fyr eg aldrei sá,
að hún væri eins fríð
yfir að sjá;
akurlöndin bleik, blíð,
með blómgvan há;
túnin slegin væn, víð,
sem verða má.
Helzt því aptur heim ríð,
en hvergi frá.“

1. Getið er um góðan mann,
Gunnar einn í Njálu,
son Hámundar siðprúðan,
sízt með geði hálu;
Hlíðarenda hèldt með sann,
höfðíngligur á sinni tíð.
„Fögur er nú Fljótshlíð.“
Frábært er um fríðleikan
frètt af stálabaldri;
„fyr sá eg aldrei.“
Engi sagt er yfir hann
afreksframann bæri;

„að hún eins væri."
Einsog hægri efldi hann
altöm vinstri höndin;
„akurlöndin;"
aldrei neinn um æfi fann,
að hún væri kraptaveik.
„Akurlöndin eru bleik."
Apturábak sem áfram rann,
aldrei niðurdreginn.
„Túnin slegin."
Hátt í loptið hlaupa vann
himininn við að sjá.
„Helzt því aptur heim ríð, en hvergi frá."
2. Þólinmóður, hógvær, hýr,
hugprúður, gjafmildur;
kallast mátti kappinn dýr
kostum öllum fylldur;
stöðuglyndur tjörgutýr,
trúfastur og lundin blíð; „F. e. n. Fl. h."
Margur varð fyri rekknum rír
rumur í stálahjaldri; „f. s. e. a."
Þegar bræður börðust þrír,
brag eg um það stæri; „a. h. e. v.,"
helftin rumafundi flýr,
úr fjórtán gengin öndin; „akurl.;"
flóttaliðið fleinum knýr,
fleiri' ei hirðti brytja' í steik; „a. l. e. b."
Hjörtur, það var harmur nýr,
hnè til jarðar veginn; „t. s."

þá var bæði bendur ýr
og brugðið hildarljá. „H. þ. a. h. r. e. h. f."
3. Ómakligum gaf opt grið
grettisjarðar lundum;
öðrum fleygði út á hlið,
einsog dauðum hundum;
atgeirinn þeim kom í kvið,
keyrði' á lopt og niður um síð; „F. e. n. Fl. h."
Ei varð löng á orustu bið,
og ýmsra helför kaldri; „f. s. e. a."
söng í þessum sigur við,
svo gafst tækifæri; „a. h. e. v."
setti því á margra mið
mætan rómuvöndinn; „akurl."
var þó jafnan fús á frið,
fremur enn taman hildarleik; „a. l. e. b."
Kolskèggur nam leggja lið,
lá því Kolur fleginn; „t. s."
nafnfrægt var það odda ið,
er áttu bræður þá; „H. þ. a. h. r. e. h. f."
4. Virðíng mesta horskur hlaut,
af hilmi Dana ríkja;
tignarklæði skjært með skraut,
skal þar mál að víkja;
nafnbót stóra geiragaut
gefa vildi' og launin víð, „F. e. n. Fl. h."
en halurinn vildi heim á braut
hleypa snekkju kaldri; „f. s. e. a."
hún því yfir hafið flaut,
að hann til Noregs bæri. „a. h. e. v."

Jafnt hver góðs hjá jarli naut,
og játuð silkiströndin, „akurl.“
hefði bónorð hríngs við gaut
hafið kèmpan ekki smeik. „a. l. e. b.“
Hamíngjuna þar til þraut,
það hún yrði’ hans egin. „t. s.“
Ógæfan sèr að honum skaut,
aptur komnum þá; „H. þ. a. h. r. e. h. f.“

5. Hallgerði sem Hèðinn kvað,
heita mátti púta,
mikið var svo mætur að
maður skyldi lúta;
mannvalinu bölva-bað
bjó til snót í geði stríð; „F. e. n. Fl. h.“
fagurskinnað flagðið það,
fjandans trillt af galdri, „f. s. e. a.“
ærulaus í allan stað,
upphengandi’ í snæri; „a. h. e. v.“
en honum hèkk fyri augum blað,
þá að gekk hríngaströndin, „akurl.“
gullibúin gnógt með hlað,
glæsilig og heldur keik, „a. l. e. b.
hitti því á vonzku-vað,
og varð til ásta dreginn; „t. s.“
heldur skyldi hún í spað,
hröfnum gefin þá. „H. þ. a. h. r. e. h. f.“

6. Skammkèll var eitt bannsett blóð,
bæði’ í verki’ og orði;
sæmdaboðin Gunnars góð
gaurinn lasta þorði;

fjandans lyga fram gekk slóð,
fullur upp með róg og níð, „F. e. n. Fl. h.“
atgeirinn þá í honum stóð,
aflèt vonzku skvaldri; „f. s. e. a.“
slíkan trúi' eg Mörður móð
mannhundurinn bæri; „a. h. e. v.“
skömmum saman hrúgum blóð,
herðtust svikaböndin; „akurl.“
rægði dýrsta drengja þjóð,
dó því Njáll í stofureyk. „a. l. e. b.“
Aldrei varð af randarjóð,
refsbelgurinn fleginn. „t. s.“
Valgarður þann vakti hnjóð
vítisþröminni' á. „H. þ. a. h. r. e. h. f.“
7. Njáll og Gunnar vóru víst
vinir í skárra lagi;
hvorigs ást frá öðrum snýst,
eitthvað þó til dragi,
í húsfreyunum hatrið knýst,
hèldu mikið þrælastríð; „F. e. n. Fl. h.“
ójafnt mèr þó á þær lízt,
eins í raun margfaldri. „f. s. e. a.“
Endalyktin sýnir ei sízt
samt hvað milli bæri. „a. h. e. v.“
Bergþóra með bónda snýst
beint í heljar gröndin. „akurl.“
Hallgerður með heiptum býst,
af húsbóndanum lífið sveik; „a. l. e. b.“
hina mundi hafa fýst,
að hjálpa Njáli fegin. „t. s.“

Illum löngum illt af hlýzt,
eins hèr segja má. „H. þ. a. h. r. e. h. f.
8. Unnu honum innanlanz
allir hinir beztu;
en öfund kvaldi argan fans
Óðins þræla verstu;
sízt var maki haldinn hans
hèr á landi' á þeirri tíð. „F. e. n. Fl. h."
Ei því lètu' á illu stans
óðs og mála skvaldri; „f. s. e. a."
hlaut því verja sig til sanns,
svo sem hverum bæri; „a. h. e. v."
varð því opt í vopnadans
vega nauðug höndin. „akurl."
Frændi þess hins fallna manns
fýstist þá á nýan leik. „a. l. e. b."
Útlegð dæmdu ulli branz,
ellegar skyldi' hann veginn, „t. s."
Hægverskligt gaf hverum ans,
hann þó leitaði' á. „H. þ. a. h. r. e. h. f."
9. Halurinn þegar heiman reið
og hugðist utan fara;
drösull hnaut, en hetjan greið
hvatliga nam sig vara;
varð til baka litið um leið,
ljóst þá mælti kempan fríð:
„Fögur er nú Fljótshlíð,"
en svo mæla ekki beið,
ei með lundu kaldri:
„fyr sá ek aldri."

þótt það kosta ætti eið,
ó, minn bróðir kæri!
„at hún eins væri,“
víst sem hún er víð og breið,
veit það bezt mín öndin;
„akurlöndin,“
hennar fegurð heptir neyð,
hugurinn unir við þann leik;
„akurlöndin eru bleik,“
annarstaðar eg ei fæ þreið,
áhorfandi feginn
„túnin slegin;“
hestinum má ei hleypa' á skeið,
hèðan út að sjá.
„Helzt því aptur heim ríð, en hvergi frá.“
10. Gizur hvíti, góði mann,
gerði' honum atför veita,
mikið var um mæríng þann,
meingerð slíka' að þreyta;
þrisvar frá með rekkum rann,
röksamligur á sinni tíð; „F. e. n. Fl. h.“
þrjátýgi vóru þeir með sann
þá að vopnahjaldri. „f. s. e. a.“
Tveir þar æfi biðu bann,
bóndinn trú' eg þá skjæri, „a. h. e. v.“
17 aðra særa vann,
sviðu lima-gröndin. „akurl.“
Af þeim sumir upp þaðan,
aldrei heilir fóru' á kreik; „a. l. e. b.“
aldrei hefðu unnið hann,

álm ef fengi dreginn. „t. s.“
Vörn sú ætíð verða kann
víðfræg mönnum hjá. „H. þ. a. h. r. e. h. f.
11. Aldrei særður áður var,
en þó mörgum varðist;
sæmdar-kappinn snilli snar,
snoturliga barðist;
allvel þoldi undirnar,
en þótt væru sárin víð, „F. e. n. Fl. h.“
brá sèr ekki bóndinn þar
á banastundu kaldri; „f. s. e. a.“
hárs um neitun Hallgerðar
þótt háðugliga færi, „a. h. e. v.“
greiða náði gæfligt svar;
grimm vóru raunaböndin; „akurl.“
einsog vargar að honum þar
ýtar sóktu hjörs í leik; „a. l. e. b.“
annar stakk, en annar skar,
Óðins limagreiin. „t. s.“
Frægðin hans um fold og mar
fyrnast aldrei má. „H. þ. a. h. r. e. h. f.“
12. Móðir Gunnars, mætast sprund,
merkiskvenndið þarfa,
sú var maklig silkihrund
slíkan geta arfa;
Hallgerði svo hrakti' á grund,
að hrökk af bænum konu-níð. „F. e. n. Fl. h.“
Grani þókti leiður í lund,
líkur Gerðu kaldri. „f. s. e. a.“
Högni meður hraustri mund

hefndi sem honum bæri. „a. h. e. v.“
Skarphèðinn hans fór á fund,
úr fjórum slapp þá öndin; „akurl.“
vaskir 2 að vetrar stund
voguðu' um nótt að far' á kreik. „a. l. e. b.“
Gunnars bana grimman hund
garpar lètu veginn; „t. s.“
leizt það Njáli lukkustund,
sem lagði ráðin á. „H. þ. a. h. r. e. h. f.“
13. Nú hef' eg um nafna minn
nokkrar samið bögur;
annar geri svo um sinn,
sè hans minníng fögur;
mèr þvi virðist maðurinn
merkiligur fyrr og síð; „F. e. n. Fl. h.“
hægverskur og hreinskilinn,
hlaðinn dygð margfaldri. „f. s. e. a.“
Ekki vildi' eg óðurinn,
annað enn satt fram bæri. „a. h. e. v.“
Loksins á mèr leti finn,
lýast tekur höndin. „akurl.“
Hvíldar beiðist hugurinn
helzt á fjömdum kvæða-leik. „a. l. e. b.“
Því skal ljóða-þátturinn
þessi' á enda dreginn. „t. s.“
Hafi þökk þeir's hróðurinn
hlýddu fúsir á.
„Helzt því aptur heimríð, en hvergi frá.[1]

[1]) Þess má hjer geta, að aptanvið flest eptirrit, sem til eru af Gunnars-kvæði, er mælt að standi þrjár vísur, sem

## **Athugasemd** við hèr ritað kvæði.

þegar eg var á úngum aldri hjá Frænda mínum Arnþóri Próf. vestur í Vatnsfirði, fèkk hann kvæðabók að láni frá húsfreyu Rannveigu Guðlögsdóttur (Prófasts Sveinssonar, er lengi var í Vatnsfirði og reit Vatnsfjarðar Annál síðari, er byrjar 1751, en hann dó í Vatnsf. 1807). Á þeirri bók var þetta Gunnars-kvæði, og man eg að eins til, að undan því var forsögn á latínu, er sagði frá: að þetta kvæði væri gert í því skini helzt, að ginna annan mann, er hèt Kjartan, og var Ólafsson; hálf skáldfífl (líklega faðir Ólafs nokkurs Kjartanssonar allra mesta leirskálds, er uppi var um lok 18. aldar og margir hèr nyrðra kunna leirkveðlinga eptir) til að kveða um Kjartan Ólafsson Páa;

---

eignaðar eru sèra Gunnari, og það með rèttu, að eg ætla. Vísurnar eru þessar:

1. Nóglega' eg af Njálu skil,
norðar eða sunnar
varla hefir verið til
vaskari maður enn Gunnar.

2. Öllum, nema sjálfum sjer,
sá var maður hinn bezti.
Mannval sèrhvert undir-er
-orpið nokkrum bresti.

3. þetta legg eg þartil með,
það mun ei fjærri sanni:
eg hefi framar aldrei sjeð
eptir heiðnum manni.

A. Sæmundsen.

og virðist 13., seinasta, versið benda til þess, þar sem svo segir: „annar geri svo um sinn, sè hans minníng fögur.“ En þetta kvæði er nú uppritað eptir rángt og illa rituðum, rotnum blöðum, er í hverri línu sýna, að ólærður og öllum ritreglum ókunnur leikmaður ritað hafi, og varð eg því sumstaðar að lesa í málið og spá í eyður, þar sem stafa var vant, eða þeir af máðir eða rotnir.

þess má enn geta: að hèr í þessu Gunnarskvæði eru ei taldir nema 30, er færi til atfarar við Gunnar; en í Njálu segir þeir hafi verið 40, en sèra Gunnar hefir víst haft einhvera þá afskrift af Njálu fyrir sèr, er svo hefir ástaðið, að þeir væru ei fleiri; og enn má þess geta: að í Eyrbyggju 47. kap., þegar Snorri goði rèði atförina að Birni Breiðvíkíngakappa, þá elur hann, að þeir Geir og Gizur hafi haft 80 manna, og mun það þó rángara.

---

# Íslanz Óður,

eður

# Ísland forna og nýa,

eða **kvæði** með lánglokulagi, kveðið (í harðindum litlu fyrir 18. aldar lokin) af **Jakobi Jónssyni** bónda á **Ísólfsstöðum** á **Tjörnnesi.**

---

Undarligt er Ísland, orðið nú, svo góð storð,
í fyrstu víst sem var;

híngað nær á hafljúng, hèldu meður lónseld,
horskir höfðíngjar.
Af nógu ríkum Norveg, og norðurlöndum um borð
gengu gullskatar.
Sætur blærinn seglskaut, sundur þandi að grund,
flýtti ferð um mar.
Brosti mót við blá röst, bræddum öskum grænklædd
ynna Auðunnar.
Skógi vaxin var þá, voldugliga öll fold,
grös og blómstur bar.
Hjörð sjálfala, heil mergð, um háveturinn gekk þá
um veldi víða hvar.
Sóktu menn þá sjó frekt, sunda hlóðu víshund
með fisk og flyðrurnar.
Veiði - líka - vötn góð, víða' á láði þann tíð
hittust hèr og þar.
Hlaupa lètu hafskip, harðan yfir brimgarð,
frjálsir fullhugar.
Undu svo við ýms lönd, að sèr drógu með það
vín og vistirnar.
Háðu stundum hernað, hlífar misstu og líf,
vondir víkíngar.
Fáir stóðu, flezt hnè, fyrir þessum í styr,
beljuðu benfossar.
Híngað út með herfáng, á haustum náðu staðlaust;
orguðu öldurnar.
Flest í lyndi lèk skárst, lýðum, gestaboð fríð
hèldu lanzherrar.
Rètta-val með rausn veitt, og rjóðast ölið var þjóð,
gunst og gersemar.

Öldin sú er af felld, önnur komin með fönn,
hörku' og hríðarnar.
Þundar gömlu þornslind, þètta hafa klæðflett,
og fagran skóg afskar.
Skriður hafa skèmmt láð, og skreyttan blóma hárreitt,
jafnt sem jarðeldar.
Brunahraun og björg ein, ber hún víða á sèr,
en litlar lanznytjar.
Hjörðin er við hey byrgð, horuð fram á allt vor,
grundin seint grænkar. (ɔ: grund seint ber sitt bar.)
Breytt er lista-hags hátt, er hölda r lærðu' í fornöld,
í výlið vesældar.
Lygar, ágirnd, last, róg, lærir margur, því nær
deya dygðirnar.
Nízkan spillir nægt auðs, nógum aka fjárplóg
mauramylkíngar.
Sjúga' úr hinum merg mjög, þeim minna rètta hlut sinn,
aldrei orka par.
Engi býr til byrðíng, er bera kunni oss hèr,
í aðrar eyarnar. (ɔ: Færeyar og fl.)
Inni verðum svo senn, sveltir — það er auðveldt —
rètt sem melrakkar.
Nema Drottins náð fróm, nákvæm bjargi oss þá,
og mýki mæðurnar.
Híngað til frá helspreyng, húngurs geymdi börn úng
sín, á brjósti bar.
Öðlíng þeim sè ætíð, æra, lof og dýrð skjær
um allar aldirnar.

---

**Athugagrein** við hèr skráð kvæði:

Á barlóms kvörtun þá, sem výlað eða volað er yfir, að sönnu, hèr í niðurhluta kvæðisins, er segir: „Engi býr til byrðíng," o. s. frv., er að vísu nú á öld hlaupinn mikill bati á leik, og góð bót þegar tekin að ráðast þar á; en þó skortir enn ærið á — og Guð má ráða, hvort þess verða kunni nokkurn tíma auðið — að lanzbú vort til sjós eða lanz fái náð slíkri blómgvun og velgengni, sem hèr var landlæg á 1. öld eptir landnámið. Því 987, ɔ: árið eptir að Eyríkur Rauði hóf bygð á Grænlandi, sem var 113 árum síðar enn Ingólfur Arnarson hóf að byggva Ísland, en 53 árum eptir að land hèr var alnumið og albyggt — (því 60 ár var það að fullbyggvast og fjölmennast að sögn fróðra manna) — þá sigldu 25 skip, alskipuð með menn, fè og fans, er Íslendíngar einir áttu, einasta úr Breiðafirði og Borgarfirði, til að leita sèr byggðar og bólfestu á Grænlandi (og ræltist þannig fullskjótt spá eða spaksgeta Eyríks, ɔ: „at þat mundi fýsa menn mjög að leita til lanzins, ef þat hèti vel"), og sá þó fyri það litla þurð á lanzbúinu í þessum hèröðum. En þó varð þessi mikla farfýsi í það sinn mörgum meir að óhappi og slisi, enn happi eða glisi, því 14 ein skip náðu slisalaust Grænlandi, en hin týndust flest eða biðu torrek hèr við land; hvað ei var kyn, þar sem engi maður hafði þá leiðarstein eða áttavita, til hafsiglínga, og ekki við að styðjast, nema hvað markað varð af gángi sólar og him-

intúngla, þegar þeirra naut; og engir námu neitt um hafsiglíngar, nema að hyggjuviti og handahófi. En fám árum síðar fór Þórgils Orrabeinsfóstri (að boðan Eyríks) til Grænlanz, og fèkk sæ-volk og vos, sem mest má verða, og náði nauðugliga Grænlanz óbyggðum við vetur sjálfan, og er hrakníngа-saga hans í mörgu minnilig, ekki sízt því, er eg hygg eindæmi, þegar hann barg lífi úngbarnsins sonar síns með að vökva blóð í geirvörtum sèr, og leggja hann sjálfur sèr á brjóst; þegar þrælar Þórgils höfðu myrðta konu hans móður sveinsins, og hlaupið á braut síðan, en stolið selabátnum þeim eina, er til var, og eldkatlinum og öllum lífsbjargar meðölum úr skálanum, meðan þeir Þórgils og 2 menn hans í góðu veðri gengu á jökla að gildra til veiða, og var slíkt heldur köld aðkoma fyri Þórgils, að koma heim að, þar sem sveinninn dauðvona lá á brjósti móður sinni dauðri og saug hana; en því er þó þessi saga enn við lýði, að Þórgils með dæmafárri atorku, ráðum, dáð og dug, fèkk þó brotizt fram úr þessum ógurligu mannraunum og náð mannabyggðum.

En, einsog oss, kærir kristnir vinir og landar! er bæði skyldt og boðið og kènnt á andlegan hátt að kappkosta að ná aptur þeirri Guðs mynd, sem oss er kènnt að týnzt hafi í Adams falli, og sem Jesús Kristur lifandi kènnandi, líðandi og deyandi, með öllu, er hann gjörði og leið fyrir oss, hefir sýnt og kènnt oss, hve oss unnt sè aptur að

